# Um sjálfsmord,

útlagt úr dønsku af Studiósus Þorsteini Hiálmarsen.

Sá mikilvægi þánki, sem útbreiddur finst í ritníngunni, frá upphafi til enda, og sem drottnadi hjá øllum hennar heiløgu mønnum: "ad þeir hér í heimi væru, fyrir Gudi, gestir og framandi, og væntu eins annars betri bústadar sídar meir" (sjá 3 Mosb. 23, 4. Ps. 39, 13. Ebr. 11, 13-16. 1 Pet. 2, 11.) hafdi hjá þeim þessa þrefoldu verkun:

1) ad þeir sestu hér í heimi aldrei ofdátt yndi; þad er, létu hvørki aud, metord né munadarlísi locka sig til ad elska heim þennan, hvørs gjædi þeir vissu ad voru svo fallvøllt og marga táldragandi.

2) ad þeir kappkostudu ad þóknast Gudi, svo sem herra síns lífs, í øllum hlutum; og á þessari hinni vegferdar reisu, ad gjøra sem mest gagn af sér, sínum samreisendum, svo þeir, vid hennar endalok, mættu um síns Guds nád þess vissari verda.

3) að þeir aldrei urðu störum óþolinmóðir, undir þessa lífs mótgángi, heldur kérpiust róligir gégnum sátækt, forsmán, afsóknir, vísslir og dauða, til síns fyrirheitna föðurlands; vissrar vonar um, að það allt mundi sér til blessunar snúast að lyktum.

Rétt þessi sami þánki fyllir enn nú allra réttrúaðra hjörtu. Og — hvörsu gétur annars verið? Jesú evangelíum — hvört að er þeirra ljós og leiðarstjarna — fæðir hann og nærir. Það kénnir manni að meta rétt mun þess stundliga og eilífa, sýniliga og ósýniliga, jarðneska og himneska. Þess fastari rætur, sem traustið til Guðs náðar — gégnum Jesúm Christ — hefur fest í sálunni, þess inniligar elskar maður Guð, þess ánægðari er hann yfir öllum hans ágvörðunum, þess rósamari undir hans föðurligu tiptunum, þess ógvíðnari um hagi sína í framtíðinni, og þess reiðubúnari og glaðari að dýrka Guð með saanndygðugu og sjálfsafneitunarfullu líferni.

Hvert á móti, hvar þessi trú — þessi evangeliska trú — vantar, hvar elskan til Guðs, umhugsán eilífðarinnar og girndin til andligra gjæða er útkulnuð, og hvar tilfinníng þess rétta og ránga, dygða og lasta liggur í dái, þar verður heimurinn og hans geingi allt of dýrmætt í sálarinnar augum, skynsemin stjórnast af skilníngarvitunum og samviiskan sofnar við tilhneigínganna smiaðrandi lockanir; þetta veldur því, að þegar annaðhvört líkamlig lucka, eður vonin um hana, bregðast þvílíkum

manni hastarliga, svo skynsemin sjer fram á hennar ónmflýjanliga tapun, og samvitskan þar á ofan vaknar, til ad brixla manni um dármensku sína, og jafnvel huldar syndir Gudi á móti, hverjar hann aldrei ádur á sig setti, þá finst sálunni, sem hún eckert hæli hafi til ad flýa; hún stendur þá líka sem í einni óttaligri audn og eydimørku, hvar hún eckert athvarf finnur, eckert nema einúngis myrkur, qvøda og ørvæntíngu; øll von er úti, bædi til heimsins, hvørs hamíngja henni horfin sýnist, og til himinsins, hvør ad er líkasem byrgdur. Nú hefur skynsemin — hvørri ádur fanst sér flest møguligt — eingan krapt til ad fridstilla sína eigin samvitsku; en trúin á Gud í Christo, sem fridþægjara, hvør máské aldrei ádur hafdi í sálunni rúm feingid, er alls eingin til. Hvør skulu þá þeirrar vesælu manneskju úrrædi? Hún girnist nú eckert svo mjøg, sem sín tilvera eingin væri, þar hún finnur í sjálfri sér þad píslarfæri, sem hún ei þykist fá afborid; og — midt í þessu ofbodi, til hvørs grípur hún? Máské til þess hrylliligasta af øllum misverkum, ad — ó! þánkann býdur jafnvel vid einsømlu nafni verksins, og þó tekur þad sjálft ad tídkast framar enn ádur, á þessum døgum, í sumum stødum — ad svipta sjálfa sig lífi. En hvad? þetta er einn náttúrligur ávøxtur af þessara daga ad undanførnu drottnandi vantrú, christindóms forakti og kaldlyndi til alls þess sem heilagt er. Því þegar

því einasta og besta lífsmedali fyrir sálina er skúfad, hvørsu má þá annars ské, enn ad bædi líkami og sál verdi daudans slátrossur! Ad vísu hefur þetta ódæduverk enn nú ecki mikla yfirhønd feingid hér í voru landi, (og þær fáu manneskjur sem lífi sínu fyrirfarid hafa, hafa flestar þartil drifist af ósjálfrádum sinnissjúkdómi, um hvørjar med stærstu varúd og vorkun er dæmandi); en þar vantrú og afrækt þess gamla ekta postulliga christindóms sýnist um tíma — Gud nádi þad! — heldur hafa í vøxt farid enn vanast, vor á medal, hvør þorir þá ad seigja, nema þvílíkur léttúdar þánki kunni ad opna þessum ógurliga glæp dyr hjá oss med tímanum, sem annarstadar? Kalla eg þad því allvel rádid, af sønnum vinum lands vors, sem álítid hafa þad þarfligt, ad láta þ:ss gagnorda og málsnjalla predikara*) raustu, sem hér á eptir fylgir, gégn þessum viddjódsliga misgjørníngi, heyrast á voru máli kynni hún ad vekja þánka nockurra, til ad heidra, betur enn ella, skynseminnar og christindómsins heiløgu bodord, og útbúa þá med nýum hugstyrk, ad standa á móti, svovel þessa sem annara, sálunni banvænna glæpa freistíngum.

Utgéfarinn.

*) Høfundurinn er sá nafnfrægi hálærdi stiptprófastur hra H. G. Clausen í Kaupmannahøfn.

## Textinn:

(Joh. Opinnb. bók 14 cap. 13 v.)

«Sælir eru þeir dauðu sem deya í Drottni frá þessum tíma; ja, andinn segir: þeir hvíla frá sínu erfiði, enn þeirra verk fylgja þeim.»

---

«Sælir eru þeir sem deya í Drottni frá þessum tíma. Þeir hvíla frá sínu erfiði, enn þeirra verk fylgja þeim.» Hvílíkum orðum gietum vier, með fullum røkum upphrópað, gaumgjæfun tilheyrendur! þegar vier gjørunst sjónarvitni dauða þess manns, sem hefir lifað óstraffanligu liferni, og framqvæmt það, sem skaparinn hafði úthlutað hønum hjer á jørdunni; enn nú vikr burt hiedann eptir hans føðurligu bendíngu. Fagur er þvílík burtfør af heiminum, dásamligur er þvílíkur dauði, Þann, sem svoleiðis «deyr í Drottni», með trú og trausti á Guði, með ljúfri hlýðni við vilja hins eilífa sem kallar hann hiedan, þann meigum vier að vísu á dauðans stundu prísa «sælann.» Trúliga og farsælliga hefir hann lokið ætlunarverki sínu; dauðinn býður hønum til hvílu eptir afstaðna lífsins armæðu, og «hans verk fylgja hønum»; hans dáð og dugnaðr á jørdunni og þeirra gleðjandi endurminníng leiðbeina hønum inní þá launaríku eilífð; um hann gietum vier

med sanni sagt, ad hans dauda dagr sje betri enn hans fædíngar dagr.

Enn — ógrubligt hrjótum vier ad þeinkja og tala, þegar vier sjáum þá hryggiligu, skielfiligu sjón, ad ein manneskja sjálf dyrfist ad hasta dauda sínum, án þess ad vilja bída tíma þess, sem er herra lífsins og daudans; sá, er med óbliúgri, vanhelgri, egin hendi, sjálfr sundurhøggr lífsins þrád, leiddr þar til af lausúnni, edr þverúdarsomu giedsofstæki; sá, sem med stødugum eptirþánka ágvardar dauda sinn, og þannin vísvitandi steypir sjer i hans afgrunn. Æ! en eg giet ecki hjá því komist ad nefna hann sínu retta nafni, því nafni, sem vekja hlýtur viddjód og skiel'íngu hjá ollum þeim, sem hafa nockra tilfinníngu og ecki eru aldeilis forherdtir. Sjálfsmordíngjann, hann gietum vier ei prísad «sælann" í þeim dauda, hann sjálfr hefir aflad sér; hann deyr ecki «i Drottni", deyr ecki eptir vilja og áqvørdun þess, sem er náttúrunnar herra, og þessvegna deyr hann ecki heldr med trúnadartrausti og von á hann; deyandi gietur hann ecki «falid sinn anda i fødursins hendr"; sínu kalli á jørdunni hefir hann ei viljad fullnægja, ecki viljad afljúka því sjer fyrirsetta dagsverki, ecki þola lífsins armædu; í daudanum gietr hann því ecki fundid þá «hvíld", sem hann leitar eptir; «trúr" var hann ecki «inntil daudans", «lífsins kóróna" gietr fyri því ecki veitst hønum; verk hans fylgja hønum

ad vísir, enn endurminníng hans seinasta athæfis fylgir honum einnig, sá fylgir honum, til ad undirbúa honum písiir í einu ödru lífi.

Fjærri veri þad oss samt sem ádr, ad fella óbliúgann fordæmíngardóm yfir hann; nei! látum hann hafa fallid sem offur fyrir lausstuni sitt blindni edr forherdíngu, vier fordæmum hann samt ecki; af hvörri þessara orsaka sem hann fallid hefir, svo miklu fremur hrygginnst vier yfir honum, aumkustum af innsta hjartans grunni yfir þeim villuráfandi, er svo grátliga vék af vegi sinnar ágvördunar; sýnum honum þad umburdarlyndi, sem hann med riettu má af oss heimta, svo sem medbródir, og þad midt i hrösun sinni. Vier vörumst ad leggja þýngri dóm á hans ódádaverk enn vera ber; miklufremur áföllum vier Guds eilífu mildi fyrir hann, og felum hann á vald þeirri guddómligu miskunsemi, sem bædi er án takmarks og enda. *)

---

*) Jafnvel vier, sem ordsins þjónar, hljótum ad opinbera Guds dóm yfir einum vesælum syndara, midt i hans glæpatulla ástandi, fordæmum vier hann ecki sjálfir, heldur Gud. Hans er dómurinn, ecki vor! En vier meigum ei dylja þad, sem Gud skipar oss ad opinbera (Ezech. 3, 17.) og þó sú opinberan kosti oss sorg og gremju, út af medaumkun, yfir þeirri skielfiligu ólucku einnar medmanneskju, ad falla í (refsandi) hendur lifanda Guds (Ebr. 11, 31.) En framar ad seigja: svo sem vier aldrei kunnum, eins og sá alvísi, ad meta misþýngd þess glæpafulla í athæfi annarar manneskju, þar vier dæmum ad-

Enn eins fjærri sje þad oss, dárliga ad afsaka hann og glæp hans, ad veita hans dyrfskufulla fyrirtæki medhald, edur gjørast þess forsvarsmenn;

---

mestu einúngis eptir því ytra áliti verksins, en Gud ransakar allar þess huldu tildrøgur og freistíngar, eptir þeirra stórkostliga innvortis mismun, svo er þad og í tilliti þess umhendlada vidbjódsliga verks sjálfsmordíngjans; því hvørt einu ad undanførnu leynt edur ljóst glæpafullur og andvaralaus. en þó Guds veg allvel þeckjandi, traundi þad út úr einu móiþróafullu giedsolstæki, edur annar, ádur rádvandur og samvitskusamur, hvør ed fjell i einu ólæknanligan sinnissjúkdóm, og úr sjúkdóminum i einslags ósjálfrædis ædi, viltist til þ ssa hrylliliga fyrirtækis, meigum vier fyrir víst vita, ad sá riettláti og miskunsami mannanna fadir gjørir hier, í sinum dómi, stærsta mismun á; svo þar sem hinn fyrri sýnist vinna til lífs dómsáfellis sem stendur Ebr. 10, 26. 27., kynni til hrøsunar hins sídara, jafnvel heimfærast Jesu bæn, fyrir hinum forblindudu fordum: «Fadir! fyrirgief þeim, þeir vita ei hvad þeir gjøra!" Nú þó seigiast meigi, ad bæn sú til forgiefnins sje, fyrir einum dandum, kann hún þó vissuliga, midt í þeim fyrsta medaumkunar og sorgar hita, ad teljast mannligum kjærleika til vorkunar, þegar hann strags á eptir varpar sjer ad fótum guddómligs riettlætis, og med einglinum af alltarinu seigir: o, Drottinn almáttugur Gud, sannir og riettvísir eru þínar domar! (Op. 16, 4.)

Þetta mun lesendum ei ógagnligt til eptirþánka taka, svo þeir ei misskilji þá gódu meiníngu rithøfundarins.

Utg.

eingangveiginn megum vér láta þessara tíva þeinkíngarháttleida oss til ad álíta þad litlu skipta, edur svoleidis, ad þad sé alleina undir manneskjunni komid, á hvorn hátt hún vill skiljast vid heiminn; hvort madr sjálfur ollir sér dauda, edur þiggur hann af Guds hend. Nei! med allri þeirri tilhlídrun, sem oss eins og manneskjum sæmir ad brúka, nær vér dæmum um sjálfsmordíngjans glæp, skulum vér þó ecki dylja hans glæp, hans mikla og óforsvaranliga glæp, hvorki fyrir sjálfum oss edur ødrum. „Vei þeim manni", seigir spámadurinn, „sem kallar þad vonda godt, og hid góda vondt; sem gjørir myrkur ad ljósi, og ljós ad myrkri!" Hvad sem er satt, skal vera satt, synd skal vera synd, skal nefnast og vidurkénnast sem synd. Sjálfsmord merkir þá athøfn, sem er svo óttalig, eins og sjálft nafnid er óttaligt. Sjálfsmord er synd — gífurlig synd. Sjálfsmordínginn deyr sem yfirtrodslumadur Guds og mannligra laga. Þannig kénnir skynseminn og trúarbrøgdinn, og á þeirra atqvædi viljum vér hlýda. Þetta vileg i dag, gaumgjæfnu tilheyrendur! kunngjøra ydur af þessum stad; eg uppfylli þad, sem mitt kall og samvitska min kreíja af mjer, med því ad koma hér fram fyrir ydur, til ad lagfæra þá morgu raungu dagdóma, er menn fella yfir þá synd, sem nú er vort umtalsefni, til ad vekja til.

bæriligann vidbjód á því verki, til hvörs eckert dæmi finnast ætti í kristnum söfnudi, í þeis-sum tilgángi ætla eg mjer ad leida i ljód rétta og sanna ljós,

glæp sjálfsmordingjans.

Sjálfsmordínginn — mjer leifist hér fyrst, minir tilheyrendur! ad seigja ydur, ad þad kostar mig mikla sjálfsafneitun, ad koma þessu óttaliga nafni útaf mínum vörum, ad mitt hjarta bifast vid, einasta af ad nefna þad, og ad þad hjartanliga qvelur mig ad neydast til ad nefna nockurn af minum medmanneskjum þessu hrædiliga nafni — sjálfsmordínginn edur sjálfsbaninn syndgar fyrst móti Gudi: hann leyfir sér ad brúka dyrfskufullt ofriki móti Guds alheims stjórnan og hans valdi yfir lífi og líkama manneskjunnar; yfirtredur þad lögmál sem skaparinn hefir innskrifad i hans náttúru; nidurbrýtur af sjálfsdádum þá krapta, sem hann var útbúinn med, breytir ljósliga þvert á móti Guds alvísa tilgángi, og truflar, ad svo miklu leiti sem i hans valdi stendur, þad augnamid sem hann þó má álíta ad lífsins gjafari hafi haft med ad gefa hönum lífid.

Þad kynni seigjast hér á mót: fródir, spákir menn og skarpvitrir heimsspekíngar hafa í forntíd gjört forsvarsmenn þess gjörníngs sem vér nú

köllum mišbrot, og hafa að nockru leiti drygt hann sjálfir. Ritníngin þegir i þessu tilliti, og gèfur hèrum eingann úrskurð. Enn — hèr til liggur mitt svar þannig: þessir vitríngar hafa, sem hægt er að særa sinnur á, látið sig alvega leiða, af þeim grundvallarlærdómum, sem mest drottnuðu í þeirra tíða heimsfræði, og hvað ritníngarinnar þögn í þessu efni snertir, þá er ei síður hægt, að leiða rök til hvað því valdi. Jesú lærdómur krefur af sínum játendum fullkomligt trúnaðartraust á Guði og hlýðni við hann; fyrir því var ei þörf á að banna verk það, er svo beinlínis stríðir mót þvílíku hugarfari; þeim kristna, sem af hjarta treystir Guði og hlýðnast honum, honum gèfur að vísu yfirsést í mörgu öðru tilliti, enn — sjálfsmorðíngi verður hann aldrei. Það heyrir alleina þann, «sem ecki vill vita að seigja af nockurri hlýðni við þau lög, sem náttúrunnar herra hefir sett honum"; eða, þá best gjörir, vill hlýða þeim, á meðann honum gèdjast vel að þeim, enn annars vill hafa friálsræði til að yfirtroða þau. «Sjálfsmorðínginn vill því, þegar hann svoleiðis breytir", ej viðurkénna Guðs allsherjar herradæmi, ecki viðkannast, að hann hefir lífið og þess viðhalld þeim að þacka «i hverjum hann lifir, er og hrærist"; hann vill ej að sá ráði sem skapaði hann, enn sjálfur vill hann ráða; sjálfur vill hann vera einvaldur yfir því lífi, sem hann sjálfur ecki gaf sér; án þess

ad gaumgjæfa þann tilgáng, sakir hvørs hønum var veitt þad, og hvørt hans fyrirtæki sé samqvæmt því ædra augnamidi, vill hann einsamann hafa myndugleik til ad áqvarda þess tilgáng, edur eptir eigiun velþóknan ad ónýta þad augnamid, sem skaparinn hafdi þarmed; hann álítur lífid sem hlut þann, med hvørn hann fara megi eptir gédþeckni; vid hvørs not hann géti gladt sig, ámedan hønum gefst tækifæri þartil, enn þegar þess er ei leingur kosta megi gjøra enda á því, án þess hann þurfi ad standa hønum reikníng fyrir, sem gaf þad. Hann losar sig frá bøndum þeim, er halda hønum sem skynsemi gjæddri sképnu, sem hefir ædri áqvørdun enn þessa jardnesku; hann slítur sig úr því sambandi sem teingir hann til skaparans, og girnist ad lifa i heiminum án Guds, breyta eptir ótakmørkudu friálsrædi, án laga, án þvíngunar, án reikníngsskapar; hann er opinber upphlaupsmadur i Guds allsherjar ríki, hvørs þegn hann er, þrágjarn, þrjótskur þegn, er ecki somikid sem vill kannast vid þá skyldu sína ad hlýda, helldur álítur sig ad hafa rétt til ad trubla og færa allt úr lagi, sem hønum er møguligt med sínu ofbeldisfulla fyrirtæki.

Yfirvegid þannig, gaumgjæfnu tilheyrendur! hvad þad verk hefir ad þýda, sem vér køllum sjálfsmord, og úrskurdid sídan, hve ósvífniésliga sá «syndgar á móti Gudi", sem adhefst þad; hann hlýtur þó naudsýniliga ad vidurkienna ædri

tilgáng sinnar jarðnesku tilveru, nema hann misst hafi alla trú á Gudi, forsjónunni og ödru lisi eptir þetta; hann gétur ómöguliga, sem skynsemi gjædd manneskja, er hefir trúarbrögd, haldid sér það leifi, ad flytta þessa tilveru sína eptir eiginn gédþeckni; ad brjótast úr þeirri stétt, sem skaparinn hefir hann ísett, þegar hönum veitir öduga ad fullnægja henni, ad beita ofbeldi móti náttúrunni, sem ecki hann sjálfur helldur skaparinn hefir gjört, ad sundurrickja því bandi, med hvörju sú almættuga hönd hefir svo dasamliga samteingt sál og líkama, og eydileggja þetta sálarinnar dýrmæta verkfæri, med hvörju hann hefdi gétad komid svo mörgu gódu her til vegar; ad gjöra sjálfur enda á því lífi, sem máské gat ordid hönum svo ónægjurríkt, sem það nú var hönum ógédfellt, ef það hefdi varad leingur. «Ómöguligt" er það, seigi eg, ad hann «haldi sér leifist" ad breyta þannig, og þó «gjörir hann það", gjörir það mót betri vitund; já, gjörir það í trássi vid allt það sem Gud hefir kunngjört hönum; gjörir það med frískum ásetníngi og yfirlögdu rádi. Hvör syndgast móti Gudi, ef sjálfsmordínginn gjörir það ecki?

Enn «eingu minna syndgar hann móti sjálfum sér"; því, med því ad "svipta sig lífinu, sviptir hann sig ásamt þeim medölum, sem langvinnara líf hefdi géfid hönum til betrunar, ser burt af heiminum med því hugarfari sem ei sæmir mann-

efkjunni, og setur sig i þad ástand, til hvørs hann hefir ei undirbúid sig." Allir hø'um vér, kristnu tilheyrendur! óneitanliga lífid þegid af Guds mildu fødurhendi til þess vér skuldum fara bagvaxandi í hinu góda. Svo leingi sem lífid varir høfum vér tóm og tækifæri til betrunar; einginn dagur upprennur oss sá, er ei ríkugliga frambjódi oss ný medøl þar til; dagliga særumst vér þó nær og nær þeirri eilífd, til hvørrar vort gjørvalla líf á ad undirbúa oss, og þegar þad augnablik lokfins kémur, ad vér flytjast egum yfir í hana, meigum vér án efa allir óska, ad géta gjørt þad sídsta skref i lífinu med gódu og sæmandi hugarfari; þad er vissuliga heiløg skylda vid sjálfa oss ad breyta samqvæmt þessu.

Enn — hvørninn breytir sjálfsmordínginn i þessu tilliti? «Hugleidir hann í tíma, hvad til hans fridar heyrir", til hans framfara til hans ódaudligu sálar frelsis og farsældar? Nei! hann brúkar ofbeldi mót sjálfum sér, sem vitstolamadur; hann breytir eins og hann eydileggi alleina þann líkama sem ecki sé ódaudligrar sálar bústadur, og ímindar sér, ad øll sín armæda sé á enda kljád, þegar hann einasta hefir sundurskorid þann þrád, sem bindur hann vid líf þetta.

«Vesæla, skammsýna manneskja! hve mjøg syndgar þú ecki móti sjálfri þér", ad þú á þann hátt burt snarar þeirri stærstu, dýrmætustu gáfu sem skaparinn gaf þér, og skilur þig vid lífid í

hvörju þú hefdir gétad nád harla stórri fullkomnan, ef þú hefdir trúliga haldid út til enda, og fært þjer oll þau medöl i nyt, er þjer gátu í því frambodist til betrunar; þú snarar þjer i daudans náköldu greipar, svo þú frýest frá armædu þeirri er þig ofsækir. Enn — þad var máské armæda þessi, sem stjórnari þinna kjara baud ad verda skyldi reynsla fyrir dygd þína, hvör ef ei hefdi látid sig yfirbuga af henni, hefdi ordid fagrari og ágjætari enn ella; sú eptirkomandi ólucka sem svo mjög skjeldi þig mundi hafa umbreytst þjer til hins besta, eptir hans fodurligu rádstöfun, sem áqvardadi þjer hana; þad sem þú áleitst straff hefdi ordid þér ad velgjörníng; med tímanum hefdi þín óánægja umbreytst til þacklætis. Í þeim mótgángs skóla, hvarí Guds alvísa forsjón setti þig, áttir þú ad læra ena sonnu speki, æfast í dygd, og verda góð og hjartaprúd manneskja, gjörast hæfiligur hér í tímanum til eilífdarinnar; enn — þú vildir ej vera á þeim stad er Gud baud þjer, ecki þiggja þad sem hann útbytti þér, «þessvegna skilst þú og vid lífid án þess ad nota þjer þad til þess, er þú bædi gatst og þjer bar.

Og — med hvílíku hugarfari skilst þú vid lífid? Sje þad örvílnan, sem hefir yfirunnid þig, eda óstyrilátt giedsofstæki sem ædir i þínu brjósti, eda beisk sorg yfir því, ad þjer vard ej ad því sem þú girntist, edur óánægja yfir Gudi og þeim kjörum, hann útbytti þjer, eda vidbjódur á lífi

því er hann lienti þjer — þá ertú mjøg svo óhæf-iligur til að skipta tímanum við eilífdina, á med-anu þessar ofsa-giedshræríngar geysa í hjarta þínu, med þessum saurigu tilfinníngum, med þessu óverd-uga sinnislægi. Hvørt girnist þú þannig að koma fyrir hann, sem gaf þjer lífid? Þú gjørdir enda á því med syndsamligu athæfi, med ódæduverki, med misverknadi; og qvedur þannig heiminn sem sjálfsmordíngi, atadur eiginn blódi; sem for-herdtur syndari, ofhyngdur af þínum syndum og misverknadi, og þínum glæp, sem fylgir þar eptir, til að saktella þig fyrir dómstóli hins riett-láta dómara. Hvørs hefir þú að vænta af hans riettlæti? Brádum er þinn hrædiligi ásetníngur framinn, enn hve mjøg „syndgadir þú ecki, mót sjálfum þjer, í því þú fullkomnadir hann"; hvørju er sídur bótmælandi, enn því, að flytjast þannig allt í einu, og med þvílíku hugarfari óundirbúinn, inn á „land endurgialdsins!" Hvørra kjara gietur þú vænst þar? hvílík mun verda koma þín þángad, eptir þvílíka hiedensør? muntú ecki blygdast fyrir sjálfum þér, þegar samviska þín vaknar þar? muntú þar gieta fyrirgiefid þjer brott þitt? O, þjer kristnar manneskjur! í því vier kløkkvir rennum vorum hugskotssjónum frá þessum ófar-sæla, finnum vier, hve mikla orsøk vier høfum til að seigja: „sælir eru þeir sem deya í Drottni!"

Eins og sjálfsmordínginn syndgar mót Gudi og sjálfum sier, svo „syndgar hann einnig móti medbrædrum sínum." Líka í þessu tilliti er hans glæpur stór, hann smánar manneskjunnar yppurstu æru í sjálfum sjer; med þeirri ódædu, hann fremur vanheidrar hann þá Guds mind, er manneskjan ber. „Vei þeim manni, seigir Jesús, frá hvørjum hneixlanir koma." „Sjálfsmordíng-inn hneixlar í hærsta máta høfund þann, hvørs

medlimur hann er; gefur sínum medbrædrum þad versta eptirdæmi er hann getur", eitt eptirdæmi er hann þó einganveiginn gyrnast kann ad fylgt sé; því í sama vetfángi og hann leggur hønd á sjálfann sig, hlýtur hans samvitska ad fordæma hans athæfi — en sú girnd ad vilja líkjast dæmum annara er svo rótfest i mannligri náttúru, ad menn breyta jafnvel eptir því sem er hid vidurstyggiligasta. Sú synd sem einasta ætti ad vera til advørunar er optast svo ásigkominn, ad hún á einhvørn hátt vinnur medhalld nockurra. Svoleidis er því varid med eptirdæmi sjálfsmordíngjans, ad þad — því midur — er meir tilhvetjandi heldur einn fráfælandi; hann líkasem tilbýdur ødrum til ad feta sinn feril, og sýnir þeim ljósliga, hve hægt þeim veiti i einu vetfángi ad gjøra sig lífsins andstreimi vidskila, nær þeim einasta rædur svo vid ad horfa. Vissuliga! sjálfsmordínginn eykur ei alltid á glæp sinn vid þad, líkasem ad áhýsa adra til ad breyta eptir sér; hann lockar adrar breiskar manneskjur, sem enn þá ecki hafa nád þeim rétta þroska i hinu góda, til ad gjøra sig sekar i enum sama glæp. Svo vidurstyggiligt sem annars hans ódádaverk er, samt tekst hønum med því ad afvegaleida adra, steypa þeim i ógiæfuna, og draga þá med sier i afgrunn gløtunarinnar. Þad er í uppáfallandi mótgángi, og þá lífsins andstreymi þreyngir mest ad, þá er þad, ad einn kristinn á ad gánga undann ødrum med gódu eptirdæmi, þolinmædis, hugdjørfungar og stødugllyndis eptirdæmi, eptirdæmi uppá einlæga, trúnadartraustsfulla hlýdni vid þann alvísa og algóda vilja hins eilífa, þá byriar þeim eina ad sannfæra þann annan um, med hve miklum krapti Gud hefir útbúit manninn til ad þola þessa lífs andstreymi, hvørsu oss tekst, «fyrir þá trú sem i oss býr ad yfirvinna heiminn", og

þad ílla sem í honum er. Um þvílíkt eptirdæmi erum vér hvør ødrum skyldugir; þarvid styrkjum, hughreystum vér hvør annann, ad ædrast ecki á þeirri svo tídum ørdugu vegferd vorri til takmarksins; heldur vardveita von og hugrecki, þángad til vér náum því.

Enn — hvad gjørir siálfsmordínginn? hann slær undan og gé'st upp, þá honum bar ad strída sem ákafast, ahurr narar sínum ørvæna mód, sem mikil laun mun ødlast." Hann skeitist fyrir þeirri olucku, enn hann treystir sér ecki til ad afbera, þorrar hvædnar og huglaus úr orustunni í hvørri hans hugrecki reynast átti, og signrinn ad berast úr bísnum; burtkastar sinni vón og trausti á Gudi, afneitar ódaudleikanum og Jafar í vind trúarbragdanna dýrmætu fyrirheitum um laun í ødru lífi fyrir audsýnda trúfesti allt til enda, geingur burt og — myrdir sjálfann sig. — Þvílíkt eptirdæmi fyrir þá eptirlifandi! Hafi hann aldrei fyrr syndgad móti þeim, þá gjørir hann þad nú.

Enn hvad skal eg seigja um þad huggunarlausa árgur og pínandi hjartasorg, sem hann med sínu veiæla og hugblauda fyriræki bakar þeim, sem eru honum nockud vandabundnir? hvad skal eg tala um þá smán hann eyfir þeim? því synd og svívyrda eru ætíd og eiga ad vera samfara; hvad um þad hjálparlausa ástand, þá trublan, þad rádaleysi sem hans skyndiliga burtfør ollir þeim; hann kastar allri byrdinni á bak enna eptirlifandi, og gaumgæfir ecki, hvørt þeir muni duga betur til ad bera hana; hann sviptir þá þeim styrk og adstod, er þeir med øllum rétti máttu af honi um heimta, skeitandi eckert um þan andvorp er hann pressar út af þeim, þau tár er hann neydir þá til ad fella. Sjálfur er hann horfinn úr heiminum, enn — hann skilur þá minníngu eptir í honum, sem einginn mun óskja. Já! hvad meira er

hann syndgar ámóti sínum hédan'gnu forfedrum, sínum sáludu foreldrum, sem honum bar ad heidra í grøf þeirra. O! þad ógnarliga hlutfall, ad hafa fædt þad barn í heiminn, er deyr sem stórbrotamadur, þad barn, sem eptir ad hafa í þeirri heilsgu skírn med bæn og blessun, gjørst einn á medal Jesu Christi játenda, og hvørs nafn seinna meir er teiknad á lista sjálfsmordíngjanna. O, þá óhappastund, á hvørr módirin fæddi hann í lífsins ljós, sem sídann sjálfur slokti þad! Hvad heldi skéd, ef fadirinn, þá hann, midt í glednnar fyrsta indæli, umfadmadi sitt nýfædda barn med þakklæti til Guds; hvad hefdi skéd, seigi eg, ef hann í þessari svipan óráð hefdi fyrir því, ad seinna meir skylda þetta sama elskada afqvæmi verda sjálfsmordíngi! var þad til þess, ad enir adhjúkrunarsömu, vidqvæmu foreldrar vøktu nótt og dag yfir því dyrmætu lífi hins elskada barns, uppfóstu þad med stærstu mædu og fyrirhøfn; var þad gjørt til þess, seigi eg, ad þetta sama barn seinna meir skyldi vanvirda sig og þau med svívirdiligum daudddaga.

«Svo stórt er misbrot sjálfsmordíngjans, svo ósøk nisliga, svo ófyrirgéfanliga syndgar hann á móti Gudi, sjálfum sér og náunganum!" Vér heldum fulla orsøk, ad heimfæra uppá sjálsmordíngjann þau Jesu ord, er hann sagdi um Júdas, sem sveik hann: «þeim manni hefdi verid betra ad hafa aldrei fæddur verid." Ill var hans hervist, illa aflauk hann sínu ætlunarverki í þessu lífi; þad er máltæki: «þegar endirinn er gódur, er allt gott"; enn því er ecki hér ad heilsa; því «sjálfsmordínginn fær enda med skélfingu", eins og Júdas, um hvørn Jóhannes seigir «ad djøfullinn hefdi farad í hann."

Hvør er því sú manneskja sem hefir skynsemi og trúarbrøgd, ad hún gyrnist þannig ad deya? hvør mundi vilja gjøra sig sekan í svoddan glæp, sem þó þeckir hann, eptir því, sem nú hefi eg ydur útmálad

hann? hvør mundi fremur kjósa ad deya eins og sá stórglæpamadur, sem bledur synd á synd ofaun, heldur einn líka sem sá dyggdugi eldúngur, sem vid lífslok sín, bad þannig: «nú lát, Drottinn! þinn þjón í fridi fara eptir ordi þínu" — hvørsu fegur, hvørsu hjartahrærandi er þó ecki þess kristins manns burtfør af heiminum, sem, med trúnadartraustsfullri hlýdni vid Gud, felur sig i hans algódu fødurhønd. Mikid andstreymi hefir hann máské þola mátt, ádur enn hann skildist hérvid; enn hann leid þad allt med kristiligri þolinmædi, kristiligu støduglyndi; hann drack i botn þjáníngauna bikar; mænandi sínum vonaraugum á þá mildu fødurhønd, sem rétti hønum hann; «hann yfirvann þad vonda i heiminum med enu góda", yfirvann þad med trú og von; nú hefir hann nád ágvørdan sinni, og med gódri samvitsku lítur hann til baka á þann farna ørduga veg, og med hugdjørfúng horfir móti þeirri eilífd, sem opnar sig. «Hann þráir ad leysast" hédann, enn rósamur bídur hann síns frelsis tíma, og lídur þolugur hvad hønum ennnú ber, þar til sú ágvardada stund kémur. Eins og sá, «sem hefir barist gódri baráttu, skridid fullendad, beháldid trúnni". sér hann i anda «þá afsídis løgdu dygdarinnar sigurkrónu, er Drottinn, sá réttláti dómari, mun géfa hønum"; sinn nálæga dauda álítur hann ad vera Drottins køllun, og hlýdir henni med gledi; lífid endar hann med þackargjørd til hans, sem gaf hønum þad.

Samkristnu! þannig æskjum vér allir ad deya. Sú mildiríka hønd, sem gaf oss lífid, skal einnig taka þad frá oss aptur, og veita oss annad betra líf. Amen!

---

Kaupmannahøfn 1820.
Prentad hjá Þorsteini E. Rangel.